# Ljósid í Myrkrunum.

Eg er Heimsins Ljós; hvør hann eptir fylgir mér, hann mun ei gánga í Myrkrunum, heldur mun hann hafa Ljós Lífsins, seigir Jesus, hjá Jóh. í 8da Capítula.

Hvad er heimur þessi?

Hann er myrkra dalur, í hvørjum ad eru sjøslags myrkur, sem sjónir villa fyrir Guds bornum, sem í gégnum hann feta hljóta, þeim til síns Fødurlands. Sæll er sá sem gégnum þessi myrkur ratad fær, svo þaugbondli hann ecki, hann mun arftoku odlast, med þeim heilogu i Ljósinu. Þessi sjøfoldu myrkur eru: Myrkur Náttúru spillíngarinnar; M. heimsins hneigslana; M. vantrúarinnar; M. oftraustsins; M. medlætisins; M. mótlætisins, og M. daudans.

Hvar fær nú sála mín Ljós í þessum myrkrum? Hjá þér, minn Herra Jesú! þú sem ert heimsins Ljós, og Ljómi Fødursins dýrdar, því andvarpa eg til þín og seigi:

Guddóms veru smind ædsta," og Födursins dýrdar glans," Jesú Christe! heimsins hærsta" hjálprædid og frelsan manns!" lýs þú mér i myrkrum þeim," er mig umspenna í þessum heim;" svo eg rati í himna hædir," hjartad þó ad syndin mædi!

---

Þaug fyrsta slags, edur Náttúru spillingarinnar Myrkur, sem manneskjunum medfædd eru, sídan Adam í fyrstu blýddi myrkraunna konúngs rádum, sundurdreifast fyrir Guds orda upplýsandi krapt, svo þar verdur Ljós í stadinn myrkurs, í mannsins sálu, þegar hann géfur Jesú Evangéllo rúm þar inni, og medtékur þad med lifandi trú, og færir þar af ávöxt í þolinmædi; af hjarta þannig bidjandi og seigjandi: Láttu orda Ljós þitt "bjarta" lýsa, Jesú! minni sál!" og burtu úr mínu hrekja hjarta", holdsins myrkur svik og tál!" upplýsi mig Andi þinn", allan helgi skilníng minn!" svo eg skynji æ þad eina," ad elska þig med hlýdni hreina;

---

Þaug önnur edur Heimsins Hneigslana Myrkur, sem orsakast af því, ad heimurinn, sem liggur í því vonda, og elskar framar myrk-

urinn enn Ljósid, af því hans verk eru vond, vill locka Gudsbörn inní syndanna myrkur, til ad hafa med sér hlutskipti í myrkranna verkum, þaug sundurdreifast nær madur hefur Jesú heilaga lífernis dæmi og Ljós, sér sífeldt fyrir augum eptir ad breyta, og þar hjá bidur og andvarpar ydugliga á þennan hátt:

Þíns lifnadar ljósa dæmi" leidi mig, svo veröldin „mig í synda ei myrkur flæmi" medur hneigslis kraptinn sinn." Lát mig fúsan fylgja þér" á ferlk lífs i heimi hér"; jafnvel þó mig heimur hati," hjartad samt ei trúuni glati!

---

Þaug þridjuslags myrkur eru Vantrúarinnar myrkur, sem rísa af því, ad svo sem mannsins þánkar eru vondir í frá barndómi, þá er hann innvortis svo forblindadur og forðjarfadur, ad skynsemin er treg ad leggja sig undir hlýdni trúarinnar. Þess vegna fellur madurinn í efasemi og vantraust, svo hann varla þorir ad reida sig á Guds fyrirheit. Inní þessi myrkur leidast Guds born í freistingunum; og eru þá þaug bestu úrrædi, ad lýsa sér fram úr þeim, med lampa Guds orda og bæninni; seigjandi: Eg vil trúa, Herra hýri! hjartans feginn ordum þín," ad þinn lausnar

dreiriun dýri" dugi að hreinsa sálu mín;" en mín trú er ofur veik," útslocknanda líkust kveik;" styrktú hana græðarinn góði!" géf mér náð í þínu blóti!

Þaug fjórðu slags myrkur eru M. Ofstraustsins; í þessum myrkrum villast eingu færri, enn í hinum; sem skédur, þegar manneskjan gleýmir skyldu sinni við Gud og sálu sína, en treystir samt á Guðs miskun og Christs forþénustu, sem einginn gétur gjørdt, nema sá sem Christi eptirfylgir. Í gégn myrkrum þessum er eingin ønnur hjálp, enn að vaka trúliga yfir sínu hjarta, og biðja um trúarinnar stoðuglyndi óaflátanliga, á þennan eður þvílíkan hátt: Ó Jesú! þitt auglit blíða" endurnærir sálu mín," lát mig ecki stansa að stríða", en stóla samt á miskun þín;" blindþi þeirri bæg frá mér", svo bljúgur eptir fylgi þér," í holdsins deyðíng daga mína," og dýrri trú á verdskuld þína.

Þaug fimtuslags myrkur eru M. Meðlætisins. Af því mannsins náttúra er svo óstoðug, á hún bágt með að þola góða daga. Þá sofnar Samvitskan; kólnar Kjærleikurinn; for-

sómaſt bænin, og ydrunarinnar ávextir viſna upp, og verda ad hégóma. Svo þeſſi myrkur villi mann ecki, er beſt ad horfa ſífeldt á fallvelti þeſſa Lífs, á dýrmæti nádartímans og á dómſins ógnanir; ſvo madur geti vakad med þeim forſjálu jómfrúm, og verid til reidu, hvenær ſem kallid kémur. Þannig bidjandi: Lát ei heimſins luckn geingi," þó lánaſt kunni mér um ſinn," ſvæfa mína ſálu lengi," ſend mér heldur Anda þinn," er kénni mér ad hugſa hitt," hverſu valt er lífid mitt;" vidbúinn ſvo vera meigi," i von og trú á nótt og deigi!

---

Þaug ſjöttu ſlags Myrkur, eru M. Mótlætiſins. Þaug eru margſlags fyrir Gudsbörnum, ſtundum innra, ſtundum ytra; ſtundum frá mönnum, eptir Guds rádſtöfun; ſtundum frá Gudi, án manna tilhlutunar. Opt eru þaug ſvort og lángſöm; ſtundum med ſtömu nockurri og ſkamvinnari. En hvors háttar ſem þaug vera kunnu, er þad beſta ljós í þeim: nádarhugganir heil. Anda, ſem drekkaſt med munni bidjandi trúar, út af brunni Evangelii; og þá hrópar ſálin þannig: Allt ad einu og hjörtur hræddur" i hreinna þyrſtir vatna flód," ſvo er eg af ſorgum mæddur" ſárþyrſtur i Jeſú blód;" ſæti Jeſú ſvala mér!" ſvo eg géti borid

hér:" dagsins hita og þúngan þjetta," þar til slíku vilt af létta.

---

Þaug sjøunda slags og sídursta myrkur, sem Guds Børnum búin eru, eru Myrkur Daudans; ecki þess andliga og eilífa, heldur þess tímanliga dauda. Í géguum þaug hljóta þaug lofsins ad þreyngja sér, inn til síns fødurlands. Daudans skuggadalur er ad sønnu ógurligur adgaungu, en allfær og audratadur verdur hann Gudsbørnum, sem alt til daudans vardveita trúna og góda Samvitsku, því Jesús Christus er þeirra Ljós og Líf, midt í myrkrum daudans; þar fyrir andvarpa þaug med Pauli og seigja:

Hvør mún leysa, ljúfi Herra!" af líkams bøndum sálu mín!" svo ad meigi um sídir þverra" syndin, freisting, neyd og pín!" Verka Jesú! þad munt þú," þú, hvørn mín umsadmar trú;" fagna eg þeim frelsis deigi;" sem fyrst eg bid hann koma meigi.

---

Svo sje eg þá, minn Herra Jesu! hvør þaug sjøfoldu Myrkur eru, sem ek hefi í þessum heimi vid ad búast; sje og líka þad Ljós, sem lýst gétur mér, svo eg hættulaust fái gegn-

um þaug komist, til ljóssins borgar á himnum. Vil eg þá þessu Ljósi trúliga fylgja, medan eg lifi, svo eg óhultur verdi fyrir eilífum Myrkrum, þegar eg á ad deya. Æ eg vil í Ljósinu gánga, svo myrkurin hamli mig ekki. Þad veittu mér minn Herra Jesú!

Heyrdú, Jesú! hjartad kvakar" heitt til þín, sem veitstú nú," eg bid um nád ad bidja og vaka" svo bili aldrei von né trú!" lát ei villast veikan mig," af veigi lífs á daudans stig!" Ljós mér vertú, líf og styrkur" loks í gégnum daudans myrkur! Amen!